# Andsvar

uppá þad

## stóra spursmál:

## Hvad skal eg gjøra, svo eg verdi sáluhólpinn?

Útlagt úr svensku af útgéfaranum.

---

Ad í einu því landi, hvar christilig trúarbrøgd eru, skulu þó margar manneskjur frámgánga í fáfrædi um þann sanna sáluhjálparveg, er einn sannleiki, hvørjum ei verdur mótimælt. Þad vottar sig berliga á því, hvad menn almennt áhyggjulausir eru um sína sálarvelferd, rétt eins og þeir óhultir væri um ad þeir ei fortapast gjætu, ellegar þeir hefdu aldrei heyrdt talad um eptirkomanda líf.

Breyzli þetta nær til fleiri, enn þeirra, sem eru af lægri røð medal fólksins. Því þeir menn, sem gjæddir eru mannligum vitsmunum, hafa opt einga sanna, einga lifandi þekkíngu um þetta efni. Sú vanþekkíng flýtur þessvegna ecki alltíd

af skorti upplýsingar skynsemi, heldur optast af þess slags villudómi, sem segir til Guðs: «gack frá oss, vér vilium ecki vita af þínum vegum." Að vísu hefur Guð sett eitt vitni í sérhvörrar einnar manneskju hiarta, nefniliga samvitskuna. Eingin er sá ei þeckir, ef hann að eins þeckja vill, að hann einn syndari sé, og þurfi fyrirgéfningar. Fángavörðurinn í Philippis hafði eydt sínum heilu lífsdögum, í andligu myrkri og afguðadýrkun; en nær hann vissi sér bana búinn, skélfdist hann og bað um náð. Hafi nú þetta hendt einn heiðingja, hvörsu miklu framar mun það hitta þá, sem uppaldir eru mitt í christindómsins skæra ljósi. Einginn er svo léttúðarfullur og þánkalaus, að hann géti óskélfdur af sér staðið dauðans — þess skélfingar-konúngs, nálægð. Jafnvel þeim forherdtustu vantrúar sonum fellst optast hugur á því markverða augnabliki. O þú minn lesari! Skyldir þu nú vera einn meðal þeirra mörgu, sem sjaldan, eður aldrei, hér um þeinkja, og sem ecki hafa neina aðra hærri umsorgun, enn þessa: "hvað skal eg eta, hvað skal eg drecka, og með hvörju skal eg klæðast?" lát þú fángavaktarans áhyggjusemi brixla þér um þitt andvaraleysi.

**Værir þú dýrunum líkur, skapaður að eins til að eta, að drecka, að lifa hér litla stund, og síðan að eingu að verða,** þá kynnir þú með góðum rökum að álíta líkamans umsorgun fyrir þá mikilvægustu, og

það, að metta þín skilníngarvit um eitt augnablik. En nú ertu ecki það; þú ert meðal allra síniligra vera hin edalligasta; í náttúru þinni er sameinaður dauðligleiki og ódauðligleiki, jarðneskt dupt og einn lífsandi frá almáttugum Guði. Þetta stundliga líf er einúngis uppbyrjan þinnar fullkomnu tilveru, og ein stutt reisa, sem endar við ódauðligleikans landamerki. Þú hefur hér marga hluti fyrir stafni, til hvørra þú kostar þinni áhyggjusømustu sýslan.

Þú byggir hús, ræktar jørðu, ydkar búskáng, allt til að staðfesta þína heimilis vist hér í lífi; og þó sem áður áttu hér ecki heima. Og í øllu þessu leitar þú að uppsprettu þeirrar gleði, sem eins er forgeingilig, sem ónóg til að fríðstilla þitt hjarta. Þú tekur hlut í øllu því sem tilfellur í þinni ættkvísl, og í þínu landi, já nærfeldt í øllu því sem tilber í verøldunni. En þetta nægir þér þó aldeilis ecki. Vit, að sá tími kémur, að þetta allt skal forgánga, en þú aldreiz sjálfur munt þú verða vitni að heilu náttúrunnar eyðileggíngu, og að henni eyðilagðri, sjálfur halda áfram að vera til, samt mæta fyrir mansins sonar dómstóli og í hans ríki. Géturðú nú þeinkt um allt þetta, og verið áhyggjulaus?

Já það gjætir þú — jafnvel þú sért ódauðligur — jafnvel þín samvitska vitni fyrir þér um einn ókominn reikníngskapardag — gjætir þú

áhyggjulaus þeinkt um þetta, ef þú ecki hefdir móðgad þinn skapara. Ein syndlaus vera þarf ei ad óttast fyrir réttlátum Gudi. Ad sjá einn dómstól med allri hans hátign, skélfir ecki þann saklausa. Svo kann ei heldur dómur og eilífd ad vekja hjá þér minstu óttasemi, ef þú sykn saka ert. En nú er ecki því máli ad gégna; þú ert einn syndari; einn forspiltur kvistur af forspiltri rót. Gud vildi, svo ad seigja, gjøra mannesskjuna í upphafi ad sínu sérdeilis eptirlætis-barni, og krafdist eingis af henni, nema hún elskadi sig aptur í stadinn. En vér høfum launad hans hid góda med vondu. Og sjálfur veistú, ad eptir þinni syndumspiltu náttúru hefur þú þannig breitt.

Nú væri þad þó eingu ad sídur sánnsýniligt, ad þú, sem syndari, mættir tilflugt hafa til þíns Skapara medaumkunar, ef þú ei sjálfur søk værir í þinni náttúruspillíngu; en nú ertú þad! Þú mátt seigja, hvad þú seigja vilt um tildrøgur þær, er ollu því ad þú í syndina féllst; og þú mátt brúka þær, ef þú gétur, þér til afsøkunar. En þú hefur samt sem ádur eina samvitsku, sem vitnar, ad hvad þú ert, þad ertú af þínum eigin vøldum; og yfir þessum sannleika þeigir hún ecki, nær hún vaknar til ad brixla þér um ólucku þína. Þú hefur kannské útmálad svo fyrir sjálfum þér, sem syndin væri lík einum erfda sjúkdómi, og álítur hana þessvegna sem eitt ógjæfu tilfelli, er þig saklausann hiti hafi. En hvarfyrir

umberdu þá ecki byrdi synda þinna med eins róligri samvitsku, sem þú lídur ósjálfrádar sjúkdómsþjáníngar? Ei heldur vilt þú fyrirgéfa misgjørdir medmanneskja þinna gégn sjálfum þér, uppá sømu ástædur, sem þú færa vilt þér til málbóta fyrir Gudi, í tilliti yfirsjóna þinna móti hønum. Ef einn illrædismadur reyníst ad hafa framid misgjørníng sinn med fullri skynsemi og frium vilja, þá þykir þér ecki skodunarmál, ad hann meigi brotligur álítast. En því álítur þú þá ecki sjálfann þig eins í Guds augum? Á þennan hátt verdur þú af þínum eiginn munni dæmdur Vanmætti þitt, ad gjøra Guds vilja, rís einúngis af þínu viljaleysi þar til. Í því tilliti ertú líkur þeim þjón, sem ei leita vill síns húsbónda besta, heldur lætur sitt eigid gagn koma sér til ad svíkja hann, nær sem færi géfst. Þvílíkann þjón álítur þú ei syknsaka, og Gud mun ei heldur álíta þig þad.

En þú vilt máské nú seigja: ad þig skorti eginligleika þá, sem þurfi til ad géta lifad eptir Guds vilja! Ney, þig vantar adeins þad hjartalag, sem vill brúka þá eptir Guds þócknun. Þegar þú villt ná þeckíngu í einhverjum heimsvísindum, þá leitar þú hennar med áhyggju og kostgjæfni; en þar á móti fordast þú hvøru einn þann, sem upplýst gétur þig á Guds veigi. Med stórri lýst géfur þú þig í samtal um veraldliga hluti, en lokar eyrum þínum

og hjarta fyrir hvørju því samtali, sem heyrir til sonnum guðsótta. Þú ert áhyggjusamur um margsháttar líkamlig efni, en vanrækir það eina nauðsynliga, at þióna drottni. Glaður heyrir þú fretta-nýúngar þær, sem tilbera í heiminum, en tíðindum þeim, sem einglarnir forðum boðuðu, og sem Guðs sonur færði á jorðu af himnum ofan, þeim fagnar þú ecki. Seig mér: eru nú ecki røksemdir þessar nægar til að sanna þína náttúru spillíngu? Nú þó þú játir þig vera af þínum eigin völdum einn syndara, þá væri samt og áður hægt að létta þeirri ángursemi af þér, ef synd þín falin væri einúngis í lítilli yfirsjón, eður þvílíkum vansa, sem maður kynni að siá í gégnum fíngur við, eður mætti reiknast með smásøkum, er friðþægjast kynnu með ángri, bænum, tárum, ellegar øðrum eigin atløfnum. En því er nú ecki svo varið. Væri syndin svo léttvæg søk, sem menn alment álíta hana, hvað veldur því þá, að svoddan grúi bannfæringa boðast einum syndara á hátíðligasta hátt, svo sem vér heyrum í 5 Mos. 6. 28, 15–20. Mundi einn réttlátur og góður Guð géta feingið af sér, fyrir eina litla søk eður einn fyrirgéfanligann vansa, að vilja bannfæra sínar skøpuðu sképnur í staðnum og á mørkinni, í þeirra inngaungu og útgaungu, og øllu því sem þær sér fyrir hendur taka? Væru syndirnar léttvæg søk, mundi þá miskunsemdanna faðir hafa fyrir þeirra skuld dæmt

allar mannesfjur til dauda, og til allrar þeirrar hörmúngar, sem undirbýr veiginn til daudans? siá Rómr. 5, 12. 6, 23. Hvar fyrir skyldu þá þeir ógudligu deya med svo skélfiligri ángist? siá Job. 18, 5–21. Og yfir allt fram, hvar fyrir skyldi þá syndin hafa útheimt, ad Guds sonur hlyti ad taka uppá sig manndómliga náttúru, og giöraft fyrir hana eitt fridþægíngar offur? 2 Cor. 5, 21.

Sé nú Gud móðgadur med syndinni, o! svo er þá ástand þitt hid skélfiligasta. Þó þad stædi í valdi þínu ad bióda allann heiminn, já siálfs þín eiginn lífs ávöxt til lausnargjalds fyrir þína syndasekt, þá hlyti þó skuldalúkníng þessi ad vera jafn ófullnóg, sem mordíngjans tár eru ónóg til fridþægíngarbóta fyrir úthellt blód. Svo ertú þá, hvört þú veitst þad edur ecki — játar þad edur ecki — þú ert í ordsins fullkomnustu merkíngu einn fortapadur syndari. Mannesfjur dæma um syndína, einúngis eptir því sem útvortis er ad siá, en Gud lítur til hjartans. Vid manna anna ransókn koma fram ad eins vissir lestir, sem fyrir samfélagskap manna skadligir eru; en Gud prófar siálfa uppsprettuna til hins vonda, og innvortis augnamidid, í hvörju þad framid verdur. Því seigir drottinn Zebaoth hja Jerem. 2, 19. "vit þú og siá hvílíka hörmúngu þad med sér færir, ad þú yfirgéfir drottinn þinn Gud, og óttist hann ecki."

Ad lyktum, jafnvel þó synd þín, hvörja þú ei siálfur forlíkad fær, yfirmáta módgi þinn skapara,

mætti það þó álítast ein yfirskins orsök til þíns hugsþrekleysis, ef þú gjætir mótistadid Guðs makt, sem vill straffa þig, umflúið hans hegníngar hønd, edur þolad ad bera þúnga hans guddómligrar reidi. En mun þess gjørast þørf ad sanna fyrir þér, hvørsu ómøguligt þér sé ad mótistanda makt hans? Edur seig mér, hvad megnar þú móti hønum? Medan þú hefur líkamans heilsu, lifir í heimsins gledi, og midt á millum vina þinna, sem eins finnadir eru og þú, sýnast atburdir þínir og ord hafa einslags svip maktar og mindugleika; en það eru þó eckert annad enn læti ein, eckert annad enn ordin tóm. Snerti Gud þig ad eins med sinni ressandi hendi, svo fellur, á sama augnablíki, allur þinn styrkur og hugbreysti til grunna; og muntú þá vilja áframhalda, ad stríða þeim almáttuga? "Hefur þú einn armlegg þvílíkann sem Gud, edur kanntú ad þruma med þinni raustu, sem hann gjørir? Hann er vís og máttugur, hvørjum hefur luckast það vel, sem seit hefur sig hønum í móti." Sama er um það, að ei gétur þú heldur umflúið Guðs hønd; því hvørt viltú undan henni flýa? Þó klettarnir gjætu hrunid yfir þig, til ad skýla þér, edur fjøllin til ad hylja þig, mundir þú samt og ádur ei fá þig falid fyrir augliti lambsins. Eda hvørt viltú fara frá anda drottins; hvørt viltú flýa frá hans augliti? Þó þú stígir til himins upp, þá er

hann þar, og þó þú byggir þér til legurúm i undirdjúpenu, þá er hann ogsvo þar!

Nú sem þú hvorki getur mótistadid Guds reidi, né umflúid hana, eins ómøguligt er þér ad fá hana afborid. Og eg get ecki ímindad mér, þú alir svo darliga von. Ad vísu meigum vér, því midur! opt heyra hvørsu forherdtir syndarar med eidum sínum og blóti, hrópa Guds bannfæríngu yfir líkama sinn og sálu, rétt eins og þeir eckert um Gud skeiti, og þyki í hans fordæmíngu eckert varid, já, rétt sem þeir óski hún mætti sem fyrst yfir sig koma, til ad vita hvørnig henni varid sé, þar þeir treysti sér vel ad þola hana; edur annars kostar, líka sem þeir hefdu giørdt sáttmála vid daudann og samníng vid helvíti. En þegar Gud, eins og hiá Es. stendur 28, 17.: "setur dóminn til réttarsnúru, og réttlætid til vigtar, þá mun hid falska athvarf ad eingu verda, og flódid (reidinnar) burtuskola þeirra hlífdar-festíngu."

O minn lesari! hugsardú ecki ad þér muni hugur og hendur fallast á þeim stóra deigi, þegar drottinn allsherjar stefnir þér fyrir sinn dómstól? Þeink um þá eptirkomandi reidi! Væri hún bygd á óréttvísi og rángindum, þá mætti ímindanin um þær plágur, sem reidin áleggur, mykjast af medvitund þíns eigin sannada sakleysis. En nú ertú ecki saklaus, heldur sekur. Þessvegna hefur þú eckert gagn af þeirri afbøtun, því sam-

vitfka þín undirskrifar eitt eilíft Amen þeim Guðs réttlætis dómi, sem á þig straffið leggur, og sjálft það sama straff hefði mátt verða þér bærilígra, ef Guð hefði aldrei frambodið þér sína náð, heldur breitt við þig umsvifalaust eptir sínu réttlæti. En gjæðska hans og miskun hvessir hans réttlætis mordvopn; því reiði einnar í sjálfri sér mildrar og miskunsamrar veru, er óbærilig, og þvílík er reiði lambsins.

Uppkomi nú ecki hjá þér nein hugsýni og umsorgun, að sá sálu þína frelsað, þegar þú les þetta, þá hefurðu fyrir víst, fulla orsök að reikna þig meðal þeirra, um hvørja það heitir: "far þú til þessa fólks og seig því, með ydar eyrum munuð þér heyra og ecki skilja það; sjá með ydar augum og ecki verda þess varir; því hjörtu þessa fólks eru forherdt, þeirra eyru eru daufheyrd, og þeir hafa aptursluft sínum augum, uppá það þeir ei skyldu sjá með augunum, né heyra með eyrunum, og eigi skilja með hjartanu, né umvendast, svo eg géti læknad þá." Gb. 28, 26–27. Athuga, hvørsu tilgéck á tímum gamla testamentisins, að eins og Guð blessaði þá sitt fólk med tímanligri farsæld, svo straffaði hann og þá yfirtroðslur þeirra med tímanligri refsingu; en nú á tímum, þá manneskjurnar njóta andligra gjæða, svo straffast og þeirra vanrækt med andligum dómum.

Þar nú eini þetta er svo ofur mikilvægt, svo legg þá frá þér allt sjálfstelið athugaleysi, og

hlusta með gaumgjæfni á Guðs orð; það mun vísa þér veginn til eilífs lífs. Vit fyrir víst, að han er hinn sami fyrir þig, sem fángavaktarann í Philippis. Jesús var af Gudi sendur, og kom híngað til vor á jørdu niður, til þeß að hann bæði vísaði ofs veginn til sáluhjálpar með sínum lærdómi, og afrekaði ofs hana með sínum friðþægjanda dauða. Hvørsu að syndin sé sér andstyggilig, og syndararnir undirorpnir straffi fyrir sín misbrot, það gaf hinn réttláti Guð til kynna, í hvørju og einu atriði Jesu pínu. «Jesús, seigir «Paulus, sem af eingri synd vissi, og sem sjálfur «var hinn heilagasti, með hann lét Guð fara, í «vorn stað, sem annann syndara, til þeß vér fyrir «hann yrðum réttlættir fyrir Gudi.» Þessa fórn og einga aðra álítur Guð gildandi til vorrar friðþægíngar við sig. Allar gamla testamentisins fórnir þóknuðust Gudi, að svo miklu leiti þær fyrirmindudu Jesú friðþægíngar offur; svo eru og allar þær fórnir, sem vér nú á nýa testamentisins tíðum framberum á altari þeß eilífa, til dæmis vorar bænir og þackargjørdir, honum óþóknanligar, svo framt þær ecki eru blessaðar og helgaðar af Jesú dýrmæta friðþægíngar offri. Á þennann hátt hefur þú þá alls eckert af sjálfum þér til að framleggja fyrir Guð þér til forlíkunar; en í Jesú og þeirri friðþægíngu, sem hann afrekað hefur, hefur þú allt hvað þar til þénar. Þessi sami Jesús, sem forlíkað hefur allt það á himnum og

jørdu er, fyrir blódid á sínum krossi, býdur þér med þeim vidkvæmustu vekjandi ordum, til ad taka hlutdeild í sáluhjálp þeirri, sem hann áunnid hefur. Og í þessu tilliti fól hann sínum sendibodum á hendur, þad embætti, sem fridþægíngunnar predikar, og þessir bidja þig og alla adra í Christi stad: «látid sætta ydur vid Gud!"

Undir líkíngu eins géstabods, einnar kvøldmáltídar, eins brúdkaups, sem himins og jardar kóngur hafi tilbúid syni sínum, fyrir sjónir setur Jesús Christus syndanna fyrirgéníngu, sálarinnar frid og eilíft líf, og þar hjá skipar þjónum sínum, ad þeir fara skuli út á þjodbrautir og túngarda og bjóda — ja, enda naudga, øllum án mismunar, ad taka hlutdeild í þessari hátíd. Þeim sem forsmá tilbod þetta, er hótad þýngsta straffi. Allar adrar syndir eru undirorpnar løgmálsins dómi; en þessi vantrúar synd, án afláts framhaldin, dregur yfir oss, svo sem yfir þad ávaxtarlausa fíkjutré, frelsarans formælíngu, og frá henni gefst eingin endurlausn.

Seig nú ecki í þínu hjarta: øll þessu hefi eg trúad, iafnvel frá mínum úngdómi! Ad vísu kanntú hafa skilid þetta, og medtekid svo sem foreldra og forfedra lærdóm; en ein þvílík trú er daud, og þessvegna þér til eingra nota.

Hún er eins og gydínga trú á Moysen, sem vor frelsari ei álíta vildi fyrir sanna trú. Því sagdi hann: «ef þér trýdud á Moysen, þa mund-

nd þér og svo trúa á mig; því um mig hefur hann skrifad." Ein svo ásigkomin trú er ecki betri enn diøflanna trú, já hefur jafnvel hjá mørgum minni verkun; «þvi diøflarnir trúa og skélfast þar af" seigir Jakob, en þú trúir og ert uggalaus.

En máské þú seigjá viljir: Eg hefi þó og svo af sjálfum mér til ransakad christilig trúarbrøgd, og er fullkomliga sannfærdur um þeirra sannleika. En hvørt gagn er ad því, medan þaug ecki hafa feingid ad sýna sig í þínu hjarta og hegdun, til sannrar umvendunar.

Þú hefur þessvegna ad eins skin gudhrædslunnar, en afneitar hennar krapti. Þín trú er enn nú í sjálfri sér daud. Gjæt þess vel ad trúin á Jesúm er ecki eintóm skynseminnar athøfn, sem ransakar ástædur trúarbragdanna med og mót, og sídan géfur eitt kaldt samþycki til þeirra, eins og menn, vid ransókn annara vísinda, géfa því sem best sannad verdur. Sá, hvørs skynsemi løgd er undir trúarinnar hlýdni, hefur hid innra fullar ástædur hins evangeliska sannleika, og jafnvel fyrir eintómis útvortis vøkkemdir gétur madur ei þá sonnu og sáluhjálpligu trú ødlast. Trúin sýnir sig sjálfa grundvallada og lifandi, med sínum innvortis uppørfanda og hugganda krapti, í sérhvørju einu því hjarta, sem lángar eptir náð og sáluhjálp.

Evangelium geymir í sér eina stærri blessun og dýrmætari krapt, til ad ebla vora tímanligu og einkum eilífu farsæld, en ad þad einúngs skuli þéna til þess ad ransaka þad, med kaldri skynsemdar gáfu. Þad ber í sínu skauti þvílíkt himnaríki, eptir hvörju eingin sækir, nema sá sem finnur sig staddann á barmi eilífrar fortöpunar. Að trúa heitir þessvegna ad afneita sínum eiginn vísdómi, sínu eigin réttlæti, sínum eiginn vilja, sem allt strídir þvert á móti trúnni, samt ad varpa sér einúngis og ad olluleiti, med andans laungunar- og vonarfullu-hrópi, í fadm Guds nádar, vegna þess fridþægjanda blóds, sem Jesús á krossinum úthellti. Þar sem þessum huggunarsamliga bodskap, um frelsi, verdur ei trúad á þennann hátt, þá hefur alls eckert ad seigja, hvörsu hálærdar smíndanir sem madur gétur giørdt sér um hann med skynsemi sinni; því hvar eingin sjálfsafneitan er, þar er og eckert trúnadartraust á Christum til réttlætíngar; og hvar þetta trúnadartraust ecki er, þar er ei heldur nein hlutteknsng í þessari mikilvægu blessun, heldur reisir sig þá formælíng Guds og hótan gégn oss í sínum fulla krapti.

Skyldir þú nú, eptir þad þú ransakad hefur lærdóm evangelii, eingu ad sídur áframhalda, í því ad mæta ecki vid evangelii nádarmáltíd, sem einn sannur géstur, heldur þvert á móti meta meira þinn búgard, eignir þínar og heimsumsýsl-

anir, þá ertú vissuliga medal þeirra bodsmanna, sem ecki vóru verdugir ad koma; þó skaltú vita þad, þér til skapraunar og advörunar, ad nú andliga kvøldmáltíd verdur samt ecki án gésta, himnaríki ecki án innbyggiara, og Christur ecki án lanna, hvørt heldur þú fortapast edur frelsast. Lærdú því ad þeckja, hvad til þíns eilífa fridar heyrir, svo þú mættir þad jafnvel strax á þessum deigi hugleida, og komdú því til ad nema þennann allra mikilvægastá lærdóm innifalinn í því sanna andsvari, uppá þessa stóru spurníngu:

Hvad skal eg giøra, svo eg verdi sáluhólpinn?

Þó spursmál þetta framsett væri fyrir þann vísasta mann í heiminum, mundi hann, án þess ad þeckja evangelii lærdóm, forgéfins kalla sér til hjálpar skynsemdarinnar og manneligra vísinda ljós, til ad géta géfid uppá þad eitt áreidanligt og greiniligt svar. Já þó þad lagt væri fyrir alla fornaldarinnar stóru heimsspekínga og fyrir gydínganna vidúnga og skriptlærdustu menn, mundu þeir allir hljóta ad finna og vidurkénna vanmætti sitt og fáfrædi, nær þeir tækju ad leitast vid ad leysa úr þessu spursmáli. Já hinir vitrustu menn, á vorri upplýstu øld, hljóta ad vidurkénna, ad spurníng þessi setji eitt takmark þeirra stóra og vídt útbreidda lærdómi. Eingu ad sídur kémur þó efni þessarar framsærdu spurníngar sillum mønnum svo misg vid, ad hún nærri af sjálfri sér

uppkémur í allra manneskja hjörtum; og þar á ofan er hún svo mikilvæg, að ef vor sanna lucka á ecki að tapast bædi í þessu og ödru lífi, þá hlýtur á einn ótvírædann hátt út henni leyst að verda.

Minn kjæri lesari! vera kann spurníng þessi hafi allareidu ádur vakid í hjarta þínu vidþvæma athugasemi. Máské ein predikan, eitt daudsfall ættíngja þinna, ein rádleggíng trúfasts vinar, einn þúngbær mótgángur edur einn pínufullur og lángvarandi sjúkdómur, hafi allareidu leidt þinn eptirþánka af alvöru til þessa efnis. Þú getur máské ecki nú, eins og ádur, fundid gledi í veraldarsolli og samtali, en getur þó samt ecki ad heldur notid ueinnar sannrar gledi af Guds ordi. Þú hefur máské aflagt marga lesti, þú hefur æft margar christendóms skyldur, en einguadsídur brestur þá hjarta þitt þá eptirræktu huggun.

Endurminníng þess umlidna slurlar þig, en umþeikníng ókominnar eilífdar gjörir þig óttafleiginn.

Þú getur ecki án hrædslu lyft þínum þaunkum til Guds; opt er rétt vid því búid, ad þú óskir ad þú aldrei hefdir fæddir verid, edur ad þú kynnir lifa upp aptur þær umlidnu lífsstundir, og byrja svo nýjann lifnad. En ósk þessi er ávaxtarlaus. Þú ert ein vera sem til er; sála þín hefur í sér ódaudligleikans edli; þaug fótmál, sem enn nú eptir eru af þinna lífdaga skeidi, áttu ófarin; og ad

því búnu b:ðist daudinn med makt inn á þig, og dregur þig fram fyrir Guds dómstól.

Hafi nú þessar edur þvílíkar hugleidíngar inntekid hjarta þitt, er eg viss um, ad þad andvarpar med sömu hugsyki, og uppkýkur sér med því sama mikilvæga spursmáli, sem hins ohilirv:iska fángavaktara; sértú nú í slíkum vandrædum staddur, þá tak á móti þeim ávísunum, sem fólgnar liggja í svari því, sem postulinn gaf honum. Þessvegna, ef meiníng þín med þessu spursmáli skyldi vera þvílík: hvad skal eg til gjøra, svo eg Guds reidi blídkad fái, edur vakid hann til medaumkunar yfir mér? Hvørja dygd á eg ad æfa, svo sem forþénandi orsøk til hans miskunar, og med hvørri eg géti feingid rétt til hlutteknínga í Jesú fridþægíngu? Þá svara eg þér þar til: alls einga!

Hlutdeildin í Christo og eilíft líf veitast ad sønnu, sem ein umbun, en þó ecki fyrir sakir þess góda sem vér høfum gjørdt, edur kunnum og — þó einúngis fyrir Guds hjálp, til vegar ad koma, heldur veitist oss þad, sem ein laun fyrir Jesú Christi hlýdni, er hann audsýndi Gudi vor vegna, allt til daudans. Þessi laun meddeilast oss af einskjærri nád, án allrar vorrar verdskuldunar, og þessvegna hljótum vér líka á sama hátt móti þeim ad taka. «Þvíad þeim sem heldur sér vid verkin, géfast ecki launin af nád, heldur af skyldu;

en hinum, sem ecki treystir á þaug, heldur trúir á þann, sem ógúdligann réttlátann gjørir, hans trú verdur hønum til réttlætis reiknud” Róm. 4, 5. Sá sem nockur mæti hefur á verkum sínum, svo sem þaug vinni til nockurra, enda minstu launa, sá sami leitast vid á einn hátt, sem meira edur minna ber á, ad ávinna sér Guds velþoknun, sem nockurskonar forskuldud laun. En hinn sem trúir, hann mótitekur sáluhjálpinni sem einni frígáfu, einum ómakligum til handa. Og vertú alldeilis viss um, ad þvílíkt og eckert annad sinnislag dugir til ad frelsa þig eilífliga. Med því meiri umhyggju sem þú leitast vid ad byggja, og í rauninni byggir vonina um eilíft líf, á þinni eigin dygd, og æfíngu þinna gódverka, því leingra víkur þú frá þeim eina og sanna veigi sáluhjálparinnar, og hefur orsøk ad búast vid því, ad þú loksins fá munir hlutskipti med þeim, sem ecki trúa.

Leif mér því án ysirhylmíngar ad tala vid þig! þitt ástand er mikid umhugsunarverdt! fullkomin er ad víssu nád sú, og ókorgeingilig er sú sáluhjálp, sem evangelíum frambýdur. Vantrúin, vantrúin einúngis veldur þínu viljaleysi ad þyggja hana og þyggja réttiliga Þú þeckir andsvar þad, sem gefid var fángavaktaranum, og þad sama svar, er þad einasta, sem med áreidanligri vissu getur gefist þér, þetta nefniliga: „trú þú á drottinn Jesúm, svo muntu sáluhólp-

inn verda"! Reyntu hér þinnar alvarligustu umþeinkíngar, og vara þig að þú ei byggir von þíns frelsis á nockru ødru, hvørsu kjært sem þér það vera kann, að ei farir þú á mis við þína eilífu sáluhjálp. En leifdu mér þá allrafyrst að minna þig á það guddómliga evangelíum, sem þú átt að trúa. Ef það sama á vel við þitt ástand, ef það, réttskilið, er velkomið þinni samvitsku og gjørvallri þinni sálu, ef það eins samstemmir þínum gyrndum, sem það óyggjanliga samstemmir þinni þørf, þá sterdur vel á fyrir sálu þinni, og mun standa eilífliga. Eg vil ecki þýngja skilníngi þínum og hiarta með neinna manna, edur mínum eigin ordum og þanckum, um það, hvað evangelíum sé, heldur einúngis vísa þér til þeirrar útmálunar þess, sem gefin er af sjálfum honum, frá hvørjum það komið er.

Nýa testamentið inniheldur margar stuttar en gagnordar afmálanir þar um, sem þó framsettar eru með svo ljósum og ótvíræðum ordatiltækjum, að madur skilur þær í sama augnabliki, sem hann þær les. Þvílíkar eru þessar eptirfylgjandi: «So elskadi Gud heimin, að hann gaf út sinn eingétin son, til þess, að allir sem á hann trúa, ei skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf." "Kjærir brædur! (segir Paulus, 1 Cor. 15, 1–4.) eg áminni ydur á það evangelíum, sem eg hefi

bodad ydur, hvert þér hafid og medtekid, í hverju þér og standid, fyrir hvert þér og sáluhólpnir verdid; eins og eg hefi ydur þad bodad, ef þér hafid því behaldid, nema svo sé, þér hafid til forgéfins trúad. Því eg hefi í fyrstunni kénnt ydur þad, sem eg sjálfur lærdt hafdi, ad Christur er dáinn fyrir vorar syndir, eptir ritníngunum, og hann er grafin og upp aptur risinn á þridja deigi, eptir ritníngunum." «Þad er eitt stadfast ord (seigir sami postuli, 1 Tim. 1, 15.) og í allann máta þess verdt, ad madur medtaki þad, ad Christur Jesús er í heimin kominn, synduga menn sáluhólpna ad gjøra, medal hverra eg er hinn stærsti." «Vér predikum ydur þann krossfesta Christum" (seigir hann í ødrum stad, 1 Cor. 1, 23., og 1 Cor. 2, 2, seigir hann) "eg held mig þessvegna eckert vita medal ydar, nema Jesúm Christum, og hann krossfestann" og Joh. 1 E. 5. 11. seigir: «Þad er vitnisburdurinn, ad Gud hefur géfid oss þad eilífa lífid, og þetta líf er í hans syni."

Innihald þessara asmálana, um hvad evangelíum sé, skérdir alls eckert verd annara sanninda, svo vér fyrir þá skuld þurfum ad álíta þaug lítilvæg. Hjærri því! en samt er sá sann-

leikur: ad Jesús Christur er í heiminn kominn til ad frelsa syndara, sá yppársti allra þeirra; því hann innilykur þess fallna mannkyns sáluhjálpar grundvöll um tíma og eilífd.

Þetta sama evangelíum sýnir, ad Gud sé réttlátur, en vér ránglátir; ad vér orsakalaust höfum, med óhlýdni vorri, líka sem gripid til vopna móti Gudi, og fyrir þá skuld unnid til eins eilífs og óendanligs straffs; ad hann ecki, vegna sins réttlætis, gat tekid oss til nádar, med ødrum kostum, enn ad hans elskuligur sonur tæki uppá sig alla vora sök; ad Gud hefur metid þann betalíng, sem hann framlagdi, sem eitt fullkomid lausnargjald, svo hann nú ad óskérdtu sínu réttlæti, getur tekid á móti og fyrirgéfid hverjum þeim syndara, sem trúir á Jesúm, hvors slags sem hans syndir vera kunna.

Kjæra manneskja! hverja verkun gjörir nú allt þetta í hjarta þínu? Því ad þetta sé allt saman vissasti sannleikur, er stadfest med órækustu rökksemdum. Því seigir Paulus, Ebr. 2, 3. 4. «Þessi sáluhjálpar lærdómur var fyrst predikadur af drottni sjálfum, og er sídan til vor kominn frá þeim (nefniliga postulunum), sem sjálfir heyrdu hann (af hans eigin munni).» Og Gud hefur borid þeim vitni, med táknum, dásemdum og margskonar furduverkum, og med heilags anda útskiptíngu, eptir sínum vilja. «Þeir eru þrír,

seigir Jóh. 1 Cap. 5, 7. 8. sem vitnisburdinn bera á himni, fadirinn, ordid og heil. andi; þeir eru líka þrír, sem vitni bera á jordunni, andinn, vatnid og blódid, sem allir bera hinn sama vitnisburd, þann nefniliga: ad Gud **hefur géfid oss eilífft líf, og þetta líf er í hans syni.**"

Vidurkénnir þú nú þennann stóra sannleika, í allri hans ómætanligu blessunar vsód, og byggir þar á þína sálar velferd, ellegar geymir þú enn nú med þér þá háskaligu efasemd, ad þu sért ecki svo brotligur, svo hjálparlaus og í einu ordi í svo fordæmanligu ástandi, sem þessi lærdómur kénnir? Kann sjálfs elskan, sem þín höfud synd, afvegaleida þig til ad hafa betri þánka um sjálfann þig, enn þér hafa byrjar? Er þad hún, sem aptrheldur þér frá, ad þú med einu audmjúku og sundurknosudu hjarta, takir á móti fyrirgéfníngu hjá Gudi, og álítir þig sem hinn stærsta, medal syndaranna? Eda ertú heldur svo sárlángandi eptir Guds nád, ad þú sért fús ad álítast sem einn réttvisliga fordæmdur stórbrotamadur, sem leidast á út til aftokustadarins? Ellegar máské þvert á móti, ad þú vilt ad sonnu frelsast, en þó med þad slag, sem minna audmýkir þína andligu drambsemi, svo þú vilt ad tillit sé haft til þeirrar hærri edur lægri treppu, sem þú ert á í því borgaraliga samfélagi; til þíns lifnadarlags, fyrir hvert þú hid ytra skilur þig frá

tøln þeirra ógudliguſtu medal fólkſins, ſem og til þinnar vidleitni; ſem þú ſýnt hefur í því ad medverka, á ſamt Gudi, til þinnar ſáluhjálpar? Hefurdú mis þocka á öllu því, ſem ecki líkar Gudi, og ertú þeſſvegna óþreitanligur í ſtrídinu móti þínum kjæruſtu gyrndum, þínum hleypidómum, þínum hégómligu þaunkum og þínum laſtafullu tilhneigíngum. Hvört andſvar géfurdu nú til alls þeſſa?

Ad viſſu veit eg fyrir víſt, ad þú, eins og allir þeir, hvörra ſinnis áſtand er þínu líkt, geymir þá oft í hjarta þér: ad meiga hafa eina fridſtillta ſamvitſku. Allt þad ſem þeſſa óſk eflir, eptir því ſækir þú, og vilt því behalda.

En gjæt þeſs þá alvarliga, ad þú leitir þeſs ſamvitſku fridar, ſem réttur er, og med réttu móti! "Gjørid yfirbót og trúid evangelio" ſvo taladi drottinn vor ſjálfur, og ſvo bendti hann oſs á þá einuſtu uppſprettu til þeſs ſamvitſkufridar, ſem vel er grundvalladur. Sæcktú því á þeſſum góda veigi, og muntú róſemd finna ſálu þinni. Alla adra vegvíſun til ſannrar hjartans huggunar, er ſvo hættuligt bædi ad géfa og þyggja, ad madur í hvörruiveggja tilliti ſetur ſig í beiſhniligann voda, ad hann tapi bædi tímanligum og eilífum fridi.

Eg ánýa þarfyrir rádleggíngu mína þér til handa, hvörri þú hlýtur med vidſvæmri ſamvitſku ad hlýda, viljirdú ecki eilíſliga fortapadur verda;

hún er þessi: — legg þú eingann annann grundvöll til þinnar sáluhjálpar, enn þann sem lagdur er, hvör ad er Jesus Christur! Og svo vil eg álykta þessa mína rædu med eptirfylgjandi advörunum, í tilliti nockurra þeirra stærstu hásrasemda, sem þú, í áðursögdu tilliti, þarft dyggiliga ad fordast:

Sú fyrsta er þessi: vakta þig vid þessslags ángri fyrir syndir þínar, sem ecki er eptir Guds sinni, og sckvða kann hjarta þínu í diúp örvæntíngarinnar! Seig ecki: "mín illgjörd er stærri enn hún kunni ad fyrirgéfast", því þarmed reingir þú sannleika þessara orda: «Jesú Christi Guds sonar blód hreinsar oss af öllum vorum syndum."

Tit ad þad er ecki hjá hönum, heldur þér, sem brestur finst.

Guds þánkar eru ecki eins og þínir þánkar, og hans veigir ecki sem þínir veigir. Þeim syndara, sem snýr sér til vors Guds, veitir hann nóga fyrirgéfníngu.

Þessvegna þarft þú ecki med födur þess túnglsiúka ad seigja: «Herra, ef þú megnar nockru, þá hjálpadu mér!" því svo svaradi drottinn Jesús: «ef þú gétur trúad, allir hlutir eru möguligir, þeim sem trúa" Marc. 9, 22. 23. Eda seig mér, hvad er þat sem veldur þinni efasemi? Er þad almætti Jesú? þvít fyrir víst, "ad hann,

án alls fortaks, er máttugar að frelsa alla þá, sem fyrir hann koma til Guðs. Eða efastú um Jesú fúsleika til að hjálpa þér? Gjæt að hans náðarávarpi til syndaranna. Mundi hann hafa kunnað láta þetta hátíðliga tilboð útgánga til allra manna: «sá sem þyrstir, hann komi til mín og drecki!" og þó eingu að síður sýna þeim, sem til hans koma, tregðu og ófúsleika til að vilja uppfylla ósk þeirra? Rok þaug, sem þú framfærir til þíns mistrausts, til dæmis: stærð synda þinna, og þinn óverdugleiki, þeirra vegna, að öðlast Guðsnáð, spretta að vísu opt út frá einu ángurfullu og gagnaudmjúku hjarta; en gjæt þess vel, að þaug ecki hjá þér orsakist af gyrnd til eigin réttlætis. Þvílík rök munu á augnabliki að eingu verða, undir eins og þú kémst til þeirrar auðmýktar: að géta tekið á móti þeirri frambodnu náð, eins og sá stærsti syndari. Án þess mun, midt undir þinna efasemda ákafa táraflóði, uppkvíkna hjá þér ein ábyggjufull vidleitni, að géta á einhvörn hátt sjálfur áunnið þér fyrirgéfníngu og náð. Kynni ásigkomulag þessara tára að géta með orðum útlistast, þá mundi innihald þeirra vissuliga verða þetta: «æ að eg einasta hefði nockuð af sjálfum mér til, sem gjæti gjört mig velkominn til míns frelsara, þá kynni eg með trúnaðartrausti að umfaðma hann; hefði eg verið nockuð minna brotligur, enn eg er, þá hefði mín von, um það að hann vildi mér móttœ-

fn veita, ecki verid eldúngis ástædulaus." Enhvør er meiníngin í þessu ønnur enn sú, ad þad verdur ein røksemd til þess, hvørsu sønn þessi umkvørtun frelsarans er: „til mín viljid þér ecki koma, svo þér fáid lífid." Þvílík eptirlángan eptir nockru, med hvørju þú sjálfur gjætir gjørdt þig frelsarans nádar makligann, er eckert annad enn ein vidleitni ad uppreisa hjá þér þína eigin réttlætíngu. En svo leingi þitt finnis ásigkomulag er þess háttar, leitur þú þig meir og meir í þá hættu, ad þú, med því ad gánga fram hjá Jesú forþénustu, viljir, med þínum sjálfs verdugleika, leitast vid ad ná þeirri sáluhjalp sem þitt hjarta óskar og þarfnast.

Sú ønnur advørunin er þessi: vara þig vid því, ad þú ei stadar nemir vid þá betrun lifnadar þíns, sem ángrid fyrir syndirnar einúngis framleidt hefur, svo þú finnir í henni ánægju.

Þetta er þó ein ný verkan vantrúarinnar, fyrir hvørrar skuld ad margir tapa trúnni, og ødlast einga sanna sálarrósemd. Þad gétur vel skéd og skédur opt, ad eintóm þecking syndarinnar kann ad hafa haldid þér frá ad yrka grófa lesti, já, þad sem meira er, komid þér til ad rækja mørg heiløg skylduverk; en þetta er þó eckert annad, enn ad afsnída syndarinnar greinir, en láta rótina eingu ad sídur lifandi vera. Þess-vegna gagnar þér þad eldúngis ecki, þó þú haldir

þér frá einni edur annari synd; hún sjálf, edur rótin til hennar í hjarta þínu, hlýtur fyrir krapt þeis fullkomna réttlætis, sem alls ecki fæst nema med trúnni á Jesúm, ad deiiast og deydast. Spillíng þinnar náttúru kann ella ad eins hafa dreigid sig í hlé, svosem á bak vid vígi sitt í hjarta þér, hvadan hún á sídan brádliga mun brjótast fram aptur, med tvöfaldu afli, og burtu sópa allri þinni betrun, sem ödrum kóngulóarvef, svo framt þú ecki réttiliga fylgt hefur evangelii reglu til þinnar frelsunar.

Já, þad er vel mögulegt, ad þó holdsins gyrndir sýnist dempadar vera, kunni önnur sálarinnar feil, einkum sú andliga drambsemi, hafa stórum í vext farid. Ad þessu muntú ad fullreinu komast, svo framarliga þú einúngis hvílir huga þinn vid þad, ad sumar af þínum yfirsjónum eru betradar, og ályktar þar af, ad þad nægi þér til sáluhjálpar. Þvílík svikul sinnisbetran mun æ leingra og leingra fjarlægja þig frá guds ríki, og safna yfir þig æ stærri óbljdu hins lifanda Guds. Þar ad auki, þó þín útvortis betran nædi hinni hæstu algjörleikans troppu, hvörsu skyldir þú samt og ádur fá stadist fyrir Gudi, hvörs ord fullvissar um: "ad án trúarinnar se ómögulegt hönum ad þóknast." Sjálfur þú hlýtur fyrst ad medtakast af Jesú, fyr enn nockud þad, sem þú gjöra vilt, géti af hönum méttekid ordid. Þad samlýdur aldeilis ecki hans

æru og hátign, sem er himins og jardar konúngur, ad taka á móti nockru af einum syndara, sem eptir hans heil. lögmáli er réttiliga fordæmdur, fyr enn þessi hans fordæmíng er burtuiekin.

Sú þridja advörunin er: varadú þig ad draga þér ecki huggun út af þeirri hrigd sálar þinnar, sem þú haft hefur út af syndum þínum. Nockrir vinir þínir kunna, máské í gódri meiníngu, ad segja þér, ad sú í sálu þinni uppvakta hrigd út af syndum þínum, sé eitt víst kénnimerki þess, ad Gud hafi audsýndt þér sérstakliga nád ödrum framar, og ad þú þar á byggja meigir von þinnar eilífu sáluhjálpar, svo sem værir þú þarfyrir i frelsarans augum hæfligur til ad fá hlutdeild í hans ríki.

En trúdú þessu ei, því ei talar ritníngin svo. Þad er ecki þín sálarángist, er sannar nockud þér til málbóta, heldur rídur allt á því, hvørn ávøxt hún færir. Saul var hryggur í hjarta sínu, svo vel sem Davíd, og Júdas svo vel sem Petur. Nær mordíngjar Jesú fundu stíng í sinni samvitsku út af ílldverkum sínum, huggadi Petur þá ecki med þeirri ímindun, ad þessi þeirra ángistarfulla þecking synda þeirra, gæfi þeim eitt fullnógt teikn til þess, ad þeir væru sannumvendtir, heldur aminnti hann þá og sagdi: „takid sinnaskipti, og hvør einn láti skíra sig í nafni Jesú Christi, til syndanna fyrirgéfníngar.“ Sama gjørdu Paulus og Silas

þegar fángavarðurinn var inntekinn af ótta og ángist. Eckert hughreystu þeir hann fyrir þá sök, heldur predikuðu fyrir honum Jesúm Christum, svo sem þá einustu uppsprettu sáluhjálpligrar vonar. Ef nockur, á tíðum gamla testamentisins, skyldi, meðal Israels fólks, hafa óforvarandis í hel slegið eina manneskju, og beiði forsómað að flýa til frelsisstaðanna, en viljað þó leitast við að hugga sig við þá ángist, sem hann fyndi til, af ótta fyrir því, að blóðhegnarinn kynni að grípa sig, mundi hann fyrir það sama hafa orðið óhultur um líf sitt. Þar finnast eingin sannur óhult úrræði, hvörki fyrir þig eður nockra manneskju, en þaug, að flýa beint til evangelii fríståðar (sem er Jesús Christur og hans forþénusta), og umfaðma von þá, sem þér þar gésin verður. Ef þú þessvegna leitar eptir eilífrar huggunnar grundvelli, fyrir þína vesælu sálu, í ángistarfullri þeckíngu og hrigðarsömum hræríngum út af þinni andligu nauð, svo ert þú viss um að fara á mis við Christum og eilífliga að fortapast. Fyrir mörgum — já mörgum — hefur það svo tilgeingið, hvörjir nú að eilífu barma sér yfir sinni dármensku, að þeir hafi viljað frelsast fyrir sinnar ángistar skuld, og að þeir heila daga hafi geingið niðurlútir og klöckir, undir byrði síns andliga böls. Þeirra innbirlaða eptirvæntíng Guðs náðar, hefur nú syndt sig að vera ei annað enn yfirbyggíng eins svikins grundvallar. Og sannarliga

gétur því ei oðruvísi varið verið; því svo sem fyrir þá, sem heyrdt hafa evangelium, er einginn millivegur milli trúar og vantrúar, svo hlýtur sá, hvør ecki trúir á Jesúm til að frelsast, að byggja sína von um frelsi — svo framt hann nockra þvílíka von hefur — á einhvørjum hlut, sem hjá sjálfum hønum er, og þessvegna verða að eilífu fortapaður.

Sú fiórða aðvørunin er þessi: vara þig að álíta ecki trúna, svo sem eitt þvílíkt hlýðnis merki við Guð, fyrir hvørrar skuld þú fáir rétt til eilífs lífs. Það er einn grundvallar sannleiki, sem þú aldrei gleyma skalt, að það er ecki fyrir trúarinnar skuld, heldur gégnum trúna (sem annann farveg) eður með trúnni (sem ødru verkfæri) sem þú kannt sáluhólpinn verða. Því trúarinnar augnamið, sem er Jesús Christur; það alleina, og eckert annað, hvørki innvortis né útvortis með oss, hvørki á himni ne jorðu, veitir manneskjunni það réttlæti, sem fyrir Guði gildir. Um þetta tekur Páulus til orða á þennann hátt: «Guð, seigir hann, gjorir syndarann réttlátann, án hans forþénustu, af sinni náð, fyrir þá endurlausn sem skéð er í Christo Jesú" Trúin er að vísu ein hlýðnis athøfn, sem Guð sjálfur boðið hefur, en hún er þá undireins í sama tilliti útiløkuð frá allri eigin forþénustu, og að hún gjorir oss réttláta, skér einúngis að svo miklu leiti, sem

hún medtekur Christum og leidir oss til einnar
sannrar hlutteknìngar í hønum, fyrir hvørs
sakir alleinasta vér sáluhólpnir verdum. Med
þvíliki trú skalt þú, nær þú ert sundurknosadur
af því þú finnur þig óverdugann ad njóta eilífs
lífs, en treystir þó uppá nádina i Christo Jesú,
med henni skaltu, seigi eg, álíta allt annad, alla
þína eigin medverkun, alla eigin forþénustu, fyrir
skada, hjá því ad ávinna Christum, og verda
fundinn í hønum, sem í heiminn kom, til ad
frelsa jafnvel þá allra stærstu syndara.

Sú sídasta advørunin, er eg vil gefa þér, er
þessi: varadú þig alvarliga vid því, ad
þú ecki af þeim upptendrudu og vid-
kvæmu villdu sinnis hræríngum, sem þú
kannt finna hja þér, undir heyrn evang-
elii, ályktir ad þú sért eitt sannarligt
guds barn, edur njótir ødrum framar
stakligrar nădar hjá Gudi. Yfir þennann
hættuliga og svikula grundvøll, hafa margir reist
vonarbyggíngu sinnar sáluhjálpar, hvør þó óggjan-
liga hast hefur og ætíd hafa mun þá somu ské filigu
eydileggíngu, sem hús hins fávísa manns, hvørt hann
á sandi byggt hafdi, og þessvegna hrundi eldúngis í
grunn, þegar steipiregn yfir þad dundu, og storm-
ar brúsudu. Siáldan gefst nockur manneskja sú,
sem annars trúir því ad líf sé til eptir þetta,
sem ei leiti sér einhvørrar ástædu, hvørsu ótrygg,
sem hún er, og einhvørs medals, hvørsu óduglan-

ligt sem þad vera kann, til þess ad byggja á von sinnar eilífu sáluhjálpar.

Sá sorgandi syndari, einkum þegar hann af náttúrunni hefur eitt viðkvæmt og tilfinníngarsamt hjarta, tekur á móti sérhverri gledjandi verkun, er hann hjá sér finnur, annad hvört nær hann sjálfur hugsar til einhverrar huggunar greinar úr ritníngunni, edur nær hann heyrir eina mjúka evangeliska prédikun, ellegar nær hann geingur til Jesú kvöldmáltídar, edur vid önnur þvílík tilfelli, svo sem kénniteikunum eins sannarligs christindóms í sinni sálu. Og svoleidis gledst hann þá yfir því, ad hann ecki er eins hardur og óbeigjanligur, sem adrir. Nú meinar hann sig ad finna í sínum úthelltu tárum, í sínum viðkvæmu gédshræríngum, fullkominn merki þess, ad hann sé sannarligt gudsbarn. En því meira sem hann nýtur af þessum eitrada sæta dryck, sem þessar sinnisins tilfinníngar byrla, því framar hyllir hann og samþyckir þad, sem mest samþydur hans elskudu gyrndum, sem útheimtir minsta afneitun sjálfs hans gudsríkis vegna og leifir hjarta hans óhindrud fríheit til ad hafa sína gledi í syndinni. Svo yfirfellur þá aptur syndarinnar svefn enn nú þýngra sálu hans enn ádur, og hann leidist æ

nær fram á barm þess eilífa dauðadjúps. Hversu opt hafa menn ecki mátt sjá manneskjur styrkjast í svoddan grundvallarlausri innbyrlíngu um sáluhjálpina, sem þeir byggt hafa á eintómum innvortis blíðum og upptendruðum geðshræríngum, samt á þeim luckuóskum og þeirri forundrun, hvar með þeirra líkar, máské í góðri meiníngu, en þó af fákjænsku og misskilníngi, hafa smjaðrað fyrir þeim, samt metið þá og álitið, sem ein sérlega elskuverð guðsbørn. Og nær þeir af hrósi þeirra hafa verið orðnir svo inntecknir og forblindaðir, hafa þeir álitið alla þá sem løgmálsprédikara og øfundarmenn sína, sem hafa viljað svipta þá þessari þeirra svikræðis huggun, með því að vara þá við því sálartáli, er dylst í þeim háu þanckum, er þeir hafa um sig sjálfa.

Skyldir þú nú, kjæra manneskja, út af þeim gleðifullu og mildu hræríngum, sem uppfylla sinni þitt, vilja dæma að þú eitt guðsbarn sért, þá gleym ecki að randsaka hræsnislaust orsøkina til þvílíkra hræringa. Gjættú þess vel, að undir þessum føgru blødum dyljist ecki sú samviska, sem sefur fastara enn nockurn tíma áður, eður eitt sjálfsmíðað réttlæti, fyrir hvørs skuld að hinn

sanni vegur sáluhjálparinnar sé yfirgèfinn, sá rètti grundvøllur misskilinn og máské forsmádur. Hugsadú ecki ad eg þarfyrir neita vilji stinnis-tilsinníganna innvortis reynslum, í andligum efnum, þess verds og álits, sem þær í eins christins manns augum hafa skulu. Séu þær af heil. anda verkadar, þá eru þær eitt medal í frelsarans hendi, fyrir hvørt hann vill leida oss til sín frá spillíngu vorri og syndahørmúngu; og sem þvílíkum, ber þér allríd þacklátliga móti þeim ad taka. En viljirdú gjøra þig fullvissann um, hvørt þínar hræríngar séu heil. anda verk edur ecki, þá er þad sú óhultasta ransóknar adfærd, ad dæma um þad af ávøxtunum. "Andans verkanir, seigir ritníngin, láta sig í ljósi í sønnum kærleika, føgnudi, fridi, lánglundargédi, blídleika, gódlyndi, trúskap, hógværd og hreinlífi." Gal. 5, 22. Finnir þú nú, ad þú af þeim hræríngum, sem þú merkir í hjarta þínu, verdur, á einn stødugann hátt, upphvattur til einnar sannrar og lifandi trúar á þinn frelsara, og styrktur í þeim ásetníngi, ad þú bædi á sorgar- og gledi-tímum einúngis viljir halda þig fast vid hann, og vita ecki af neinum ødrum grundvelli til þinnar vonar og gledi, nema hønum einum; ecki heldurskepta nockurri annari

ánægju, enn þeirri sem fæst af sameiníngunni med Jesú, midt undir stadfastri afneitun sjálfs þín og þessa heims eptirlætis, ad samfaranda, í øllum greinum, heil. lífferni, út af Guds sonar trú, þá mátu vera fullviss um, ad þessar þínar sinnis-hræríngar eru réttrar náttúru og heil. anda verk í þinni sálu. En samt sem ádur eru hvørki þessar formerkíngar, né géta nockrusinni ordid, ein for-þénandi orsøk sáluhjálparinnar, því einginn annar grundvøllur kann í því tilliti ad leggjast, enn sá sem lagdur er, hvør ad er Jesús Christur.

Æ minn lesari! Jesús sonur Guds géfi, ad, í því augnablicki, sem þú endar lestur efnis þessa, yrdi þinn synda-svefn svo umturnadur, ad hjarta þitt ad fullu og øllu gjæti uppvaknad, til þeirrar allranaudsýnligustu hugsýki: "hvad skal eg tilgjøra svo eg verdi sáluhólpinn"? En máské allt annad efni hafi híngad til dags tekid til fánga þína umhyggjusemi, hvør ed þó hefdi átt fyrir laungu ad hafa yfirgéfid hégómann og jørdina, en af allri alvøru snúid sér til þess eina naudsýnliga, sem er frelsi sálarinnar. Eda seig mér: hvørja uppskéru og hvørn ávinn-íng hefur þú af því útsædi, sem þú sád hefur í syndarinnar og veraldarinnar akur? Hvad annad,

enn eitt hjarta, sem komid er í lángann vana med at gleyma Gudi og Þinni sáluhjálp, og jafnvel heldur áfram, med eptirlæti, ad forsmá ríkdóm hans gjæzku, Þolinmædi og lánglundargédś; eina samvitsku, sem eingann sannann frid (nema kannské banvænann dauda-dofa) hefur í sjálfri sér, einga lisi og huggun af Því ad Þeinkja um Gud, og einga hughreysti vid umÞeinkíngu daudans, dómsins og eilífdarinnar; eitt minni fullt af ótöluligra misbrota registri, sem annadhvørt heimugliga edur opinberliga hafa drýgd verid, og útbreida med sínum skelfiligu afleidíngum nýa sorga dimmu yfir sálu Þína, já stæla, hleck fyrir hleck, Þaug synda fjøtur, í hvørjum Þú fángadur ert, og útpressa andvørp og bannfæríngar af Þeim, sem Þú, ásamt med sjálfum Þér, hefur í ógjæfu steypt. Séu nú Þetta launin fyrir alla Þína trúmensku, med hvørri Þú hefur syndinni Þjónad, hvørs muntu Þá hafa ad vænta, á Því markverda augnabliki lífsins, Þegar Þú lagstur á Þína banasæng, færd í sannleikans ljósi ad sjá Þá makt, med hvørri syndin hefur forblindad Þig og á tálar dreigid.

Minn lesari! skyldir Þú nú vera einn á medal Þeirra ólucksuligu, sem fyrir sakir sinnar áhyggjuleysi og mædu fyrir ýmisligum veraldar sýslunum,

setur til síðu þína eptirleit eptir því eina nauðsýnliga; gériðu þá, eg bið þig í Jesú nafni og fyrir þinnar velferðar sakir, géf án undandráttar þessari allra nauðsýnligustu spurníngu rúm í hjarta þér: hvað skal eg gjöra, svo eg hólpinn verði? Því enn nú má svo uppá hana svara, að þér verði til huggunar og eilífrar velferðar; enn nú, seigi eg — því sá tími kémur, að það verður ofseint að spyrja: hvað skal eg gjöra? ofseint að hrópa: Herra, lúktú upp fyrir mér! En nú, sem stendur, kanntú að framsetja þessa spurníngu, í þeirri von, að fá eitt grundvallað svar uppá hana, og eina bænheyrslu, sem ei á tálar dregur. Þetta er svarið: "Trú þú á Drottin Jesúm, svo verður þú sáluhólpinn!"

Sjá hér meðalið, fyrir hvört þú, af Jesú hendi, kannt að taka á móti ríkdómi hans náðar! O þú villuráfandi og afvegaleiddi syndari! trúðu á drottinn Jesúm! Þú hræddi og efasami! stíg upp úr djúpi þinnar efasemdar, og hugleið, að það orð er staðfast og allrar viðtektar verðugt: "að hvör sem trúir á drottinn Jesúm, hann skal hólpinn verða!"

## Umqvartan yfir skorti kjærleikans til Jesu.

O hvad kaldt er mitt auma hjarta! elskan þín Guð er dauf hjá mér; yfir því eg með ángist qvarta, í audmýkt djúpri fyrir þér; þú veitst hvad gjørdir vel við mig, veitst líka hvørsu eg styggi þig!

Kjærleikans reistir minnis merki, til mestu blessunar syndurum, á Golgatha — nær vanst það verkið, að veita líf og náð heiminum; eingin fórn offiðr þókti þér, þarmeð ef gjætir hjálpað mér.

O hvørsu þú af elsku særdist, upptendradur að frelsa þjóð! o að sá logi í mér nærdist, að elska þig Jesú! fyrir þitt blóð! ó, að øll hegðan mætti mín mikla með dygdum elsku þín!

Um hvørsu svo mørg ár og daga, elska, minn Jesu, gjørdir mig, en eg hef mér svo illa hagað, aldrei dýrdkað, sem skyldi þig; æ hvad blygdast eg út af því, óhlýðni mín er forn og ný!

Kuldi míns hjarta og kjærleiksleysi kémur til háska sálu mín, því nær sig hørmúnga hretið reisir, hrædslan strax eykur mér þá pín; svæsinni freistíng' synda gégn sálin þá hefur ekkert megn.

Herra! nú fyrir hátign þinni háska minn klaga og voðaspil; þitt náðar auga sékum sinni, og sjái til mín af kjærleiks il! mín neyð hún rekur mig til þín, miskuna þú og vægðir sýn!

Skrifa það djúpt í minni mínn, hve mikið þú leiðst til frelsis þjóð; mér þinnar innræt minnsíng vínn, minn Jesu! svo þín kjærleiks glóð, nær eg horf' inní hjartað þitt, hjartað sér gégnum þreyngi mitt!

Æ kveik í mér þann kjærleiks loga, að kunn' eg elska þig af rót, helgri með drift svo vyrðist voga að verja mitt hjarta syndum mót, í útvaldra lokkins eg mun krans, elska þig, brunnur kjærleikans!

Kaupmannahøfn 1817.
Prentað hjá Þorst. Einarss. Rangel.

# Prentvillur

í Nr. 7.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| blſ. 5 | l. 28 | ſyfn | l. | fyſn |
| — 6 | - 4 | at | l. | ad |
| — 7 | - 3 | Romr | l. | Romv. |
| — „ | - 29 | jálſur | l. | ſjá·fur |
| — 11 | - 5 | hí gad | l. | híngad |
| — „ | - 29 | heſur | l. | hefur |
| — 14 | - 1 | bleſſum | l. | bleſſun |
| — 16 | - 20 | umþeikníng | l. | umþeinkíng |
| — „ | - 24 | fæddir | l. | fæddur |
| — 27 | - 24 | ſtadiſt | l. | ſtadiſt |
| — 31 | - 22 | ſké ſiligu | l. | ſkélſiligu |